Frá hins Konúnglega Norræna Fornfræða-Fèlags ásigkomulagi og athöfnum sögðum vèr Yður í brèfi voru af 4ða Mají þessa árs. Um þann heppilega frama, hvörjum Fèlagsins efni síðan hafa náð, áskiljum vèr oss at mega senda Yður greinilega skírslu við aðra hentugleika. Nú leyfum vèr oss þó fyriframm at gefa Yður hið markverðasta þaraf til vitundar.

Tala Fèlagsins innlendu reglulima er nú stigin til 260. Frá útlendum vísindafèlögum, lærðum mönnum og lærdómsvinum hefir það þegið margar kærkomnar sendíngar og heiðarleg vinahót, en hið helzta þaráməðal má þó reiknast stórt safn merkilegra útskrifta, eptir fornum brèfum, er geymast í hins Prussiska konúngsríkis skjalasafni í Königsberg, og mest viðvíkja sögu Danmerkur og Norvegs í tíð Margrètar drottníngar og hennar eptirkomara til Friðriks konúngs hins fyrsta.

Með Fèlagsins fyrrveranda Forseta, Hra. Ofursta-Löjtenants *Abrahamsons*, aðstoð hefir það á ný meðtekið álitlegan viðurauka þess höfuðstóls í 200 Ríkisbánkadala silfurs höfðínglegum skeink frá Hra. Etatsráði og Riddara *Donner* í Altóna.

Frá einum ónefndum Velunnara Islands hefir Prófessor *Rask* meðtekið 150 prentrit þeirrar nýu Stokkhólms-útgáfu af Snorra Sturlusonar nafnfrægu Heimskrínglu, í þremur bindinum og áttablaðaformi, (auk einstakra parta) með þeim tilmælum, að þessar bækur (sem hlaupa til 1000 Ríkisbánkadala andvirðis) verði gefins útbýttar efnalitlum, en þó skírum og fróðleiksgjörnum Islendíngum. I því tilliti hefir Prófessórinn óskað meðverkunar Fèlagsins Fornritanefndar (hvörrar limur hann nú sjálfur er), og hún hefir þegar sendt til Islands svo mikinn hluta gjafarinnar, sem áfallinn haust-tími leyft hefir, en beðið (eðr mun biðja) einstaka Fèlagslimi í sèrhvörjum landsfjórðúngi, að standa fyrir útbýtíngu þessa nytsama og fallega prentaða verks, á þann hátt sem bezt má henta og svara til Gjafarans lofsverða augnamiðs.

Við þessa hentugleika höfum vèr þá æru at senda Yður prentað skírslu- og boðs-blað um það ársrit, er Fèlagið framvegis ætlar at útgefa undir þessum titli: Nordisk Tidsskrift for Oldkyndighed, og mun það (meðal annars) innihalda ritgjörðir nafnfrægra lærdómsmanna (t. d. Hra. Biskups *P. E. Müllers* og Etatsráðs *Werlauffs*) og annara nafnkendra fornfræða-yðkara, sem eru Fèlagsins limir. Vèr vonum, að verk þetta, hvörs prentun þegar byrjuð er, muni kröftugliga stuðla til slíkra vísinda útbreiðslu og eflíngar. Þettað Fèlagsins boðsbrèf er með ásettu ráði sameinað viðbættum, á lángri reynslu grundvölluðum, Athugasemdum um fornleifar, þeirra hirðíng og geymslu, að mestu leiti sömdum af Hra. Kansellíráði *Thomsen*, fornleifanefndarinnar meðlim og sekretèra, — hvörjar vèr at vísu vonum ei muni Yður, og fleirum Yður kunnugum lesendum, ókærkomnar vera.

Af Grænlendínga-Sögum, hvörjar við undirskrifaðir Finnur Magnússon og C. C. Rafn ætlum í ljós at leiða, er það að segja, að þetta Fèlag nú hefir ályktað at styrkja verks þessa útgáfu á líkan hátt og önnur verk þess Fornritanefndar. Vèr óskum þessvegna, að tala og nöfn þeirra, er á Islandi vilja skrifa sig fyrir þeim, verði oss, hið fyrsta skeð getur, til vitundar gefin. Sá nafnfrægi ferðamaðr, sem fyrstr að nýu hefir uppgötvað Grænlands Austurstrandir, og nú er þaðan híngað kominn, Hra. Kapteinn-Löjtenant og Riddari *Graah* hefir óskað, að hans þarum hljóðandi ferðabók sameinist tèðu riti, ef hentugleikar það leyfa — við hvörju heiðarlega tilboði við með þökkum tekið höfum. — Loks getum við þess, að þau skjöl nú eru hèr í staðnum fundin, er

sanna þá merkilegu kringumstæðu, að margar og miklar ættkvíslir Islendínga hafa kyn sitt að rekja til hjóna, er giptust í Grænlands Austurbygð öndverðlega á 15du öld. Þau þarað lútandi skjöl og sýnishorn af merkilegustu ættartölum, munu í fornritapörtum tèðs verks auglýst verða.

Viðvíkjandi skeðri umbreytíng í vors Fèlags Fornritanefnd hafa fáeinir þess, þarmeð óánægðir, limir vakið óþægilegar þrætur á prenti, sem hafa neydt oss til einnig að láta vorar og Fèlagsins atgjörðir, áhrærandi þau málefni, á prent útgánga, og tilsendast þær Yður þannig. Vèr höfum, eins og þaraf sjá má, þarmeð nægilega sannað, að sú skeða umbreytíng var óumflýanleg, og aungvanveginn gjörð í þeim tilgángi at áreita neinn. Þessi umbreytíng hefir hlotið almennt meðhald Fèlagsins hèrverandi lima, og þó sýnir reynslan, að þessara tala nú mjög álitlega er aukin. Vèr vonum og að Fèlagsins medlimir á Islandi, hvörra álit og meðhald vèr at vísu mikils metum, muni, þegar öll málsins skilríki þeim eru kunnug orðin, af þeim leiðast til líkrar sannfæríngar.

Ei mundum vèr samt hafa ónáðað Yður með sendíngu þessa ritlíngs um hèr risnar þrætur, ef oss ekki frá einum fèlagslim á Islandi hefði verið sendt prentað brèf, dagsett í Kaupmannahöfn þann 26ta Aprílis þessa árs, útgefið af einum Fèlagsins lim hèr, sem einnig áður hafði verið, en þá ei leingur var, Fornritanefndarinnar meðlimur (því sá annar, hvörs nafn þar finnst undirskrifað „Þ. Helgason" gat ómögulega haft nokkra hlutdeild þarí). Að þetta brèf sè útgefið án Fèlagsins eðr þess Fornritanefndar vitundar og vilja, mun sèrhvörjum ljóst, þar það leyfir sèr at leysa þá, er áðr höfðu skrifað sig fyrir þeim af Fèlaginu útgefnu fornritum, frá þessu loforði framvegis. Slík aðferð sýnist hvörki að vera brèfsins útgjafara til minnstu nota, nè samkvæm Fèlagsins helzta augnamiði, at viðhalda föðurlandsins fornritum, og þarf því ei fremur neins umtals af vorri hálfu. Einúngis óskum vèr, háttvirdti fèlagsbróðir! at geta þess við Yður, og (með Yðar góða tilstyrk) við þá Súbskríbenta að Fornmanna-Sögum, sem Yður kunnugir og nálægir eru, hvörsu óhagstætt og óviðurkvæmilegt það mundi vera, að hætta við hið 6ta Bindi, hvörs frammhald hið 7da (sem, meðal annars, hljóðar um Noregs konúng, Magnús berbein, forföður allmargra Islendínga) að miklu leiti getur álitizt at vera, þar þess innihald er tekið af þeim sömu þremur ypparlegu skinnbókum, og á að hafa sameiginlig Registur og þrjár eyrstúngnar eptirmyndir aðalritanna, og þarað auki verðr algjörliga til prentsmiðjunnar undirbúið af þeim sama manni, Prófessóri Rask, er lagði síðustu hönd á útbúníng hins sjötta bindinis. Loksins getum vèr þess:- að Islendinga-Sögum, þegar Fornmanna-Sögur eru til lykta leiddar, mun af Fèlaginu árlega frammhaldið verða. Ef annað frammhald þeirra auglýst verðr af öðrum en Fèlagsins embættismönnum eðr Fornritanefndarinnar núveraudi meðlimum, er það Fèlaginu óviðkomandi.

Kaupmannahöfn, í enu Konúnglega Norræna Fornfræða-Fèlagi, þann 27da September 1831.

*J. F. W. Schlegel*, *Forseti.* — *Finnur Magnússon*, *Aukaforseti.* — *C. C. Rafn*, *Sekretèri.*

*J. F. Magnús*, *Fèhirðir.* — *R. Rask*, *Meðlimr Fornritanefndarinnar.*